# ÆFIÁGRIP

og

# ÚTFARAR-MINNÍNG

Kansellíráðs **Þórðar Björnssonar,**
fyrrum sýslumanns í Þíngeyarsýslu.

---

Útgefin af

*dótturmanni hans*

Sekretèra O. M. Stephensen.



**Reykjavík.**
Prentað í prentsmiðju landsins, af H. Helgasyni.
1848.



Hinn fremra hluta átjándu aldar bjó sá maður að Lundarbrekku í Bárðardal, er Tómas hèt, Flóventsson, kona hans hèt Haldóra Þorláksdóttir, þau áttu son er Björn er nefndur, er snemma var mannvænlegur og vel að sèr um marga hluti. Þá bjó að Rauðuskriðu Jón Benediktson, lögmanns Þorsteinssonar sem lánga æfi var sýslumaður í Þíngeyarþíngi, en sem aldur færðist yfir hann, og hann ekki treystist til að gegna hèraðsstjórn af eiginn ramleik, tók hann Björn Tómasson, eins og þá var siður til, fyrir lögsagnara sinn, árið 1756, og vitum vèr ekki rèttar, enn að Björn væri í þeirri stöðu hin næstu 7 ár síðan, en að þeim liðnum varð lögsagnari Jóns, systursonur hans, Vigfús Jónsson frá Eyralandi, er framast hafði utanlands, og feingið konúngsbrèf fyrir sýslunni nær Jón lèti af henni; Björn hafði kvænst úngur og feingið konu þeirrar er Steinun hèt, Þórðardóttir, góðs bónda og allmerkilegs á Sandi, Guðlaugs-

sonar, bjuggu þau hjón á Hafralæk í Aðalreykjadal, og þar fæddist þeim á fyrsta sunnudag í Nýuviknaföstu árið 1766, þriðjadag Þorra, sonur er heitinn var Þórður, eptir móðurföður sínum, og var hann skírður af Bergi Magnússyni, er þá var prestur að Nesi. Tók Þórður á Sandi nafna sinn þegar heim til sín til fósturs, og unni honum mikið, og var Þórður á fóstri með afa sínum í barnæsku og allt til þess hann var kominn á námsaldur, en þá tók faðir hans hann heim til sín, og kom honum síðan fyrír til kennslu hjá prestinum Þorláki Jónssyni á Húsavik, sem var vel að sèr í lærdómi og laginn til að fræða únga menn. Var Þórður hjá honum nokkra vetur, og nam af honum skólalærdóm, og fannst presti mjög um iðn hans og námfýsi, og hvað hann þegar á únga aldri var þroskaður í skilníngi, enda tók hann þar og framförum að því skapi. En þá bar svo til meðan Þórður var hjá Þorláki presti til kennslu, að guðfræðíngur nokkur, Einar Thorlacius að nafni, kom utanlands frá með veitíngarbrèf fyrir Grenjaðarstað, var Þórður þá á 14 árinu. Einar hafði leingi verið í Danmörku og náð þar háskólamenntun og lagt sig undir próf í guðfræði, og hafði gott mannorð. Hann settist þegar að brauði sínu Grenjaðarstað, en sama haustið var Þórði komið fyrir hjá honum til menntunar, og þó hann hefði áður haft góða tilsögn

hjá Þorláki presti, fèkk hann nú þá, er var miklu fullkomnari, því bæði var Einar prestur vel að sèr, og hinn siðlátasti maður, og einka vel fallinn til að fræða únga menn, enda orðlagði Þórður jafnan síðan hvað presti hefði farist vel öll tilsögn, og hvað hann hefði grædt á fræðslu hans, eins og Einari presti að sínu leyti þótti mikils verðt um það hvað Þórður var námfús og vel fallinn til menntunar. Hjá Einari presti var Þórður í 2 vetur, og þar honum þótti að Þórður að þeim liðnum væri orðinn fulllærður í skólalærdómi, var hann sumarið 1782 á slætti sendur til prófs vestur að Hólum í Hjaltadal, ásamt öðrum skólasveini Einari Grímssyni, ættuðum úr Reykjadal, er síðan var mörg ár prestur á Knappstöðum í Stíblu. Voru þeir Þórður og hann reyndir í skólalærdómi af meistara Hálfdáni Einarssyni, og feingin stúdentabrèf. Fór Þórður þá heim til föðurs síns og settist að hjá honum. Björn hafði þá búið búi sínu sem bóndi í 19 ár frá því er hann lèt af lögsögn hjá Jóni sýslumanni; og þar hann var barnmargur, og hafði ekkert við að styðjast, átti hann mjög þraungt í búi; hann bjó þá á Knútsstöðum í Aðalreykjadal. Það var því að vonum að Þórður ætti þessi árin við bágan kost að búa, og svo var það og í raun og veru, því hann var hafður við fjárgætslu og aðra vinnu, og skorti opt mat; má geta því nærri að Þórð-

ur, meðan þessu fór fram, ekki hafi getað lagt stund á bóknám, þar sem hann skorti nálega öll áhöld, er þar að hnígu, og bjó við fátækt og skort með föður sínum; en nú bar svo til, að Vigfús Jónsson, hvers áður er getið, og tekið hafði við sýslunni eptir Jón Benediktsson, varð mjög sjúkur, svo hann gat ekki gegnt embætti. Varð Björn þá lögsagnari hans í sýslunni árið 1783 í næstu 3 vetur, en síðan fèkk hann veitíngarbrèf fyrir sýslunni, þegar Vigfús lèt af henni. En þar Björn var hnígin á efri aldur, og mæddur orðinn í mörgu, tók hann son sinn Þórð sèr til aðstoðar í embættinu, og vitum vèr og, að hann tók mikinn þátt í hèraðsstjórninni með föður sínum, einkum þegar fram í sótti, og bæði elli og sjúkleiki gekk á föður hans. Varð honum með þessum hætti gagn kunnug öll hèraðsstjórn, og sèrhvað það, er þar að hnígur, og með því Björn sýslumaður var þjóðkunnur að góðu, vitur maður og stjórnsamur og enn mesti reglumaður, þykir meiga fullyrða, að Þórður hafi numið margt það af föður sínum, er seinna ágætti stjórn hans, og gjörði hann svo ástsælan af sýslubúunum sínum og þeim er báru kynni af honum; liðu svo 9 ár að Þórður gegndi sýslustörfum með föður sínum. En þó hann þannig væri bundinn veraldlegum störfum, og hann í orði og verki sýndi þess óræk dæmi, hvað vel hann

var til slíkra starfa fallinn, hneig þó hugur hans um þær mundir og lærdóms-yðkanir öllu fremur að prestlegri fræði; þess vegna varði hann öllum tómstundum sínum til þess að nema guðfræði, og með því hann var hinn mesti eljumaður, og lagði alla stund á að komast að grundvelli i hverju máli sem var, svo gat ekki heldur hjá því farið, að hann í þessari vísindagrein næði mikilli þekkíngu, og svo var það og í raun og veru, því hann var svo vel að sèr í guðfræði, að það má fullyrða, að hann í þeirri grein stóð jafnfætis mörgum þeim mönnum, sem varið höfðu yðn sinni einúngis til að nema guðfræði, hafði hann og jafnan ánægju af því síðan, að eiga tal við guðfræðínga um guðfræðisleg vísindi, og lagði hann þá fram djúpsærni og yfirgripsmikla þekkíngu á þeim efnum. Má ætla að Þórður hafi því lagt stund á þessa vísindagrein, að hann eins og högum hans þá var varið, ekki hafi getað sèð veg til þess að menntast utanlands, en þá er hèr í landi einginn annar vegur til embættis, enn sá að gjörast prestur, en hitt var líka, að hugur hans hneigðist einkum í þessa stefnu, en þar sem slík innvortis köllun er fyrir, fer það að líkindum að það komi fram í verkinu. En það lá ekki fyrir Þórði, að komast í prestastètt. Faðir Þórðar, sýslumaður Björn, hafði tekið eptir því hvað sonur hans var vel fallinn til stjórnar, og vakti þess vegna

máls á því við hann, að hann færi utanlands og lærði lög, og tæki svo sýsluna eptir sig. Þórður taldist undan í fyrstu, enda átti faðir hans ekki hægð á því að hann gjöra út til þeirrar ferðar sem þurfti, en þó kom svo um síðir, að Þórður hèt ferðinni, og fór hann utan um haustið 1792 með Akureyrar skipi; gekk honum greiðlega ferðin, en ekki lagði hann sig undir próf við háskólann fyrr enn árinu eptir 1793. Þegar hann því næst hafði lokið við forspjallsvísindi þau, sem stúdentum er ætlað að nema, og lagt sig undir próf, eins og siður er til, lagði hann fyrir sig lögvísi, og það með þeirri ástundun og framförum, að hann að þremur árum liðnum gat tekið embættispróf, og gjörði hann það þann 1. Júlí 1796 með beztu einkunn, og um haustið tók hann það svo kallaða *examen practicum*, einnig með bezta vitnisburði.

Þykir þetta vera nægur og ljós vottur um ástundun Þórðar meðan hann dvaldi við háskólann, og jafnframt sönnun fyrir því, hvað hann var vel gáfaður, einkum þegar á það er litið, að hann vegna fátæktar hlaut að verja töluverðum kabla úr hverjum deigi til þess að segja öðrum til, þar sem hann með þessum hætti þurfti að hafa ofan af fyrir sèr og útvega sèr daglega nauðþurft, en það er í augum uppi að það dregur hugann frá ætlunarverki þeirra,

sem stunda bókmenntir við háskólann, ef þeir jafnframt þurfa að vera hugsjúkir um það, hvaðan þeir geti feingið daglega nauðþurft; eins og hitt í annan stað hefur dreigið huga sumra frá rèttum veigi hafi þeir haft þar meira fè handa á milli enn góðu hófi gegndi, því það er sannreynt, að það þarf sterk bein til að þola góða daga.

Þegar Þórður þannig var búinn með heiðri og sóma að ljúka bókyðnum sínum við háskólann fór hann samsumars heim til Íslands, og dró það atriði hann einkum til að hraða heimferð sinni, að hann hafði feingið vitneskju um að faðir hans þyrfti aðstoðar, er hann hafði ritað syni sínum, að heilsa sín væri á förum, og að hann ekki treysti sèr aðstoðarlaust að gegna embætti sínu. Sýndi Þórður með þessu þá skyldurækt við góðan föður, sem honum var ætlandi og eðlileg, því það liggur í augum uppi, að Þórður hafði fyrir litlu að gángast að hverfa heim til Íslands að svo búnu, en að honum, ef hann hefði fyrst um sinn ílengst í Danmörku, hefði verið auðsótt að komast þar í góða embættisstöðu, eptir því sem þá hagaði þar til og hagar enn, því sannur dugnaður og menntun nær hvervetna rètti sínum; en Þórður fór ekki að þessu; hann lèt sèr annast um að gegna sonarskyldunni, að aðstoða föður sinn á elliárunum; hann tók sèr því far út til Íslands

með Akureyrarskipi um haustið 1796 og fór þegar heim til föður síns, en þar átti hann ekki gleði að fagna, því þegar hann kom heim, var faðir hans lagstur í þeirri sótt, sem litlu síðar leiddi hann hèðan, svo að það var svo að kalla fyrsta verk hans að standa yfir moldum föður síns, í stað þess að hann hafði glaðt sig við þá tilhugsun, sð geta orðið ellistoð hans. Björn sýslumaður leifði sèr bezta mannorð, og var mjög tregaður af sýslubúum sínum, og þeim er báru kynni af honum, og það mjög að maklegleikum.[1]

Eins og við var að búast skipaði amtmaður S. Thorarensen, Þórð þegar fyrir sýsluna, en veitíngarbrèf fyrir henni veitti konúngur honum árinu eptir.

Þegar Þórður sýslumaður hafði tekið við embætti, setti hann bú að Garði í Aðalreykjadal, eptir föður sinn, og bjó þar síðan alla æfi; húsaði þann þar vel og bygði reisuglegan bæ, og á þar með öllum rètti heima orðtækið: „húsbóndinn gjörir Garðinn frægan,“ því leingi mun þessi jörð bera menjar hans og halda uppi hans minníngu; en þegar hann hafði búið nokkur ár, giptist hann árið 1804, Bóthildi Guð-

---

[1]) Konferenceráð M. Stephensen minnist sýslumanns Björns Tómássonar í Eptirmælum átjándu aldar með þessum orðum: „þessi orðlagði reglu- og ráðvendnis-maður.“

brandsdóttur, bónda þar í sveit, Einarssonar. Guðbrandur var skáldmæltur, og vel að sèr um marga hluti, en búhöldur lítill; þótti því sumum sem Bóthildur væri ekki fullboðin Þórði sýslumanni, slíkum manni sem hann var, þar sem hún var umkomulítil og ættsmá, en sú varð raunin á, að þetta þótti vel ráðið, því Bóthildur var hin ágætasta búkona, og unni mjög manni sínum, fór og allt vel á með þeim hjónum jafnan og ástúðlega. Þau áttu saman 3 börn, dó eitt þeirra á barnsaldri, en tvö komust til aldurs og lifðu föður sinn, Hallgrímur og Sigríður. Hallgrímur lærði skólalærdóm, en fór síðan utan, og nam danska lögvísi, en lagði sig ekki undir embættispróf; fór hann heim til Íslands aptur, og settist að hjá föður sínum og var honum til aðstoðar meðan hann lifði, en þegar hann var látinn, setti hann bú að Garði eptir föður sinn, og andaðist þar 3 árum síðar.

Sigríður var alla stund með föður sínum, en lofaðist áður enn hann andadist *Cand. Theol.* Tómasi Sæmundssyni, sem síðan varð prestur að Breiðabólstað í Fljótshlíð og prófastur í Rángárþingi og frægur maður; lifðu þau saman í 6 ár, (því sèra Tómas lèzt 1841), en 3 árum síðar giptist hún sekretèra O. M. Stephensen í Viðey.

Þegar sýslumaður Þórður var setstur að sýslu, kom skjótt fram hver afbragðsmaður hann var bæði að stjórnsemi allri og vitsmunum, og

ekki leið það á laungu áður enn hann væri talinn einhver enn merkasti og vitrasti sinnar tíðar sýslumanna, og þessu áliti sínu hèlt hann óskertu til dauðadags.

Sýslustjórn hans var íhlutunarsöm og skipti sèr af öllu, er hneig að almenníngs hagsæld og þörfum; hann gekk ríkt eptir öllum ósiðum, og hèlt með árvekni vörð á því að lögunum væri gegnt rækilega. Hann lagði því ekkert mál undir höfuð sèr, en gegndi hverju máli sem skjótast, því hann sá glöggt hvert mein er í því, þegar þeir, sem laganna eiga að gæta og trúað er fyrir því, að gæta almenníngs þarfa, ekki fyrri enn í þeirra góðu tómi skipta sèr af málum manna og hegna yfirtroðslum og lagabrotum, er slík aðferð ekki einúngis dregur allan kjark úr stjórninni, heldur og stælir þá, sem hneigðir eru til ens lakara upp í því að gánga í berhögg við stjórnina, auk þess að slíkt veldur margs meins þeim er hlut eiga að máli; en hèraðsstjórn sýslumanns Þórðar var jafnframt ljúfmannleg; hann gjörði aldrei úlfalda úr mýflugu, en tók að eins hart á vondum vilja og ásetníngs glæpum, og þar af kom það, að allir unnu honum hugástum, því allt stjórnar athæfi hans lýsti því, að hann hlutdrægnislaust hèlt uppi hvers manns rètti, og að það var hans aðal mark og mið að gegna verki köllunar sinnar eins og bezt mátti verða. En

þar sem þessi sannfæríng komst inn og var vakandi í meðvitund allra þeirra, sem hann var skipaður yfir, og lögreglustjórn hans var íhlutunarsöm um allt, sem undir hann bar, að rèttu lagi, heptust, eins og nærri má geta, við það allir ósiðir meðal sýslubúa hans, því eingum leiðst á-tölulaust að fara sínu fram eða vaða uppi í nokkru ósæmi, eins og hann lagði blátt bann við og hepti allt lögbannað sjálfræði. Þar af kom það að sýslustjórn hans þótti fögur fyrirmynd annara, og sönnuðu það bæði æðri og lægri, og það var því mjög að vonum að stjórninni yrði tjáð það, hvað rækilega hann gegndi köllun sinni, enda kom það og fram við hann, því árið 1810 sæmdi konúngur hans kansellíráðs nafnbót, og lèt með því ásannast verðugleik hans og holla þjónustu, en um þær mundir var það nýmæli hèr í landi að stjórnin veitti slík metorð, en því meira mark er og hafandi á slíkum heiðursmerkjum af hendi stjórnarinnar sem henni er ótíðara að veita þau.

Árið 1819 veitti konúngur honum Árnessýslu, og fór hann þángað um sumarið til að skoða hana, en bæði var það að þá var árferð sunnanlands vegna rigninga í lakara lagi, og hann í raun og veru frábitinn allri breytíngu á högum sínum, þó hann vegna harðinda þeirra og ens mikla fjárfellis, sem þau árin geingu yfir sýslu hans, að vísu hefði leiðst til að sækja

þaðan, enda sá hann sig og þegar aptur um hönd, og sótti um að meiga vera kyr í sýslu sinni, þó hún, eins og alkunnugt er, bæði sè miklu örðugri yfirferðar og tekjurnar hvergi nærri eins miklar eins og í þeirri er hann nú hafði öðlast; konúngur veitti honum og bæn sína, og urðu sýslubúar hans, eins og að líkindum ræður, feignir þeim málalyktum.

Þegar amtmaður St. Thorarensen deyði árið 1823, var sýslumanni Þórði af stiptamtmanni Moltke falið á hendur að gegna amtmanns embættinu meðan það væri óveitt aptur; og er það auðráðið af brèfi stiptamtmannsins hvílíkt álit að hann hafði á vitsmunum hans og stjórnsemi. Sýslumaður Þórður færðist undan í fyrstu, en gjörði þó eins og honum var boðið, þegar stiptamtmaður lagði að honum, og gegndi hann embætti þessu á annað ár, eða þángað til amtmaður Grímur Johnsson tók við því af honum í Júlí mánuði 1825. Margir vinir hans fýstu þess að hann skyldi sækja um þetta embætti, og það er varla efi á því að konúngur hefði veitt honum amtmannsembættið, ef hann hefði borið sig fram um það, en nú var hann staðráðinn í því að láta fyrirberast, það eptir mundi æfinnar, í sinni kæru Þíngeyjarsýslu, og tók hann því þess vegna fjærri að biðja um þetta embætti, þó það hefði mátt virðast, að honum hefði verið það hagfeldara, þar sem aldur tók nú að færast yfir

hann, en sýslan, eins og hún þá var, einhver en örðugasta yfirsóknar, og því heldur var þetta árennilegt, sem hann var þeim kostum búinn, að hann mundi og í þessari stöðu hafa leyst verk köllunar sinnar vel af hendi; en það var hvorttveggja að hann, eins og vèr höfum drepið á, var frábitinn allri breytíngu á högum sínum, enda var það einkenni á honum, að hann jafnan gjörði lítið úr sjálfum sèr, og þóttist ekki vera fær um margt hvað sem hann í raun rèttri var vel fær um; hann dró sig ávalt fremur í hlè, en tildraði sèr hvergi fram til vegs nè virðíngar, því allt slíkt var gagnstætt skaplyndi hans og öllu þánkafari; þó tók hann að sèr amtmannsstörfin í annað sinn, þegar amtmaður Johnsson fór utan 1826 og gegndi þeim meðan hann var erlendis.

En eins og sýslumaður Þórður var fyrirtak annara í allri hèraðsstjórn sinni, þannig var hann og afbragð samtíðismanna hèr á landi í lögvísi. Um þetta bera dómar hans, sem jafnan þóttu bygðir á rèttum laga skilníngi og þess vegna stóðu optastnær óhaggaðir, þó leingra ræki, nægan og áreiðanlegan vitnisburð; það votta álitsskjöl þau, sem eptir hann liggja, og hníga að ýmsum vandamálum; um það geta borið allir þeir, sem í vandamálum leituðu ráða hjá honum bæði nær og fjær, enda var það álit á hygginðum hans, að minnsta kosti norðanlands,

að eingin ráð þóttu ráðin, nema hann hefði verið tilkvaddur. Samdi hann og í tómstundum sínum ritgjörðir um ýms málefni, t. a. m. um skattatöku, þegar „Hjálmar á Bjargi" kom út á prenti, og sýslumönnum hèr þótti hann fara með ýms nýmæli í því efni. Sýndi hann ritgjörðir þessar vinum sínum, er komu á hans fund, en síðan ætlum vèr hann hafi týnt þeim, því ekkert þesskonar kom fram eptir hann látinn.

Dómaraverk sín vandaði hann mjög, hafði hann og opt orð á því við vini sína, hversu köllun dómarans væri vandamikil, og hversu áríðandi það væri að gegna henni rækilega; gekk hann því jafnan að henni með ugga og ótta, og þóttist aldrei geta gegnt henni svo rækilega sem hugur hans stóð til. Rannsakaði hann því ítarlega allan málastað, og þar sem hann var framúrskarandi að skarpleika, og veitti hægt að koma sjónum á þau atriði málsins, sem einkum var undir komið, komst hann jafnan að rèttri undirstöðu, en undir þessu er það aptur komið, að dómsatkvæðið geti orðið eins og vera ber. Hann lèt sèr því í sakamálum, þar sem öll rannsókn málsins er lögð á dómarans vald, annt um það, að öll þau sakaratriði, sem bæta mættu málstað hins ákærða, leiddust í ljós, eigi síður en þau áfellandi, því hann vildi eingum gánga ofnærri

en að því leyti honum var unnt, meta hegnínguna eptir því sem hlutaðeigandi hafði með réttu tilunnið; og var hann því bæði rèttvís og mildur dómari Eigi var hann gjarn á að heimfæra dönsk lög til þessa lands, nema þau hefðu öðlast skýlaust gildi, enda hefur það atriði, að dómendur og yfirvöld optar enn skyldi og nauðsýn mundi til, hafa fundið dönskum lögum hèr heimild og gildi, komið til leiðar ýmsum vandkvæðum og ósamhljóðun í heimfærslu laganna hèr á landi, sem ekki þarf að leiða hér rök til. Ei að síður lagði sýslumaður Þórður mikla stund á að halda þræðinum í löggjöf Dana, og skrifaðist á við ýmsa lagamenn um rèttan skilníng á þeim lagaboðum, sem mikið var í varið og útgeingu fyrir Danmörku, en einkum lèt hann sèr annt um að kynna sèr það hvernig dómstólarnir skildu og heimfærðu lögin, og hverjar grundvallarreglur, einkum í sakamálum, ættu sèr þar stað; og hèlt hann þessu áfram meðan hann lifði.

Í álitsskjölum sínum og öðru, sem hann ritaði, var hann gagnorður og frábitinn allri orðamælgi; orðfærið var, hvort heldur hann ritaði á dönsku eða íslenzku máli einfalt og óbrotið, hugsunin ljós og skipuleg; ekki var hann fljótvirkur að neinu, því hann var jafnframt vandvirkur og vandlátur við sjálfan sig; matti hann mest að hvert mál væri vel úr garði búið, og þareð

hann jafnframt lét sèr annt um að gegna hverju máli sem skjótast, auðnaðist honum að geta gegnt verki köllunar sinnar bæði fljótt og vel, og er þetta að vísu fagur vitnisburður, og þó enn fegra að eiga hann með rèttu skilinn.

En eins og sýslumaður Þórður þannig gegndi embættisköllun sinni með heiðri og sóma og ávann sèr með því fagran orðstír bæði nær og fjær, þannig var hann eigi síður mikilsvirtur og ástsæll fyrir sakir mannkosta sinna og allrar hegðunar, og skal nú drepið á þetta í fám orðum.

Á heimili sínu var hann hversdaglega hljóður og fremur alvörugefinn, en jafnframt ávarpsblíður og viðfeldinn; siðavandur og reglumaður mesti eins og faðir hans. Báru þeir og sem honum þjónuðu þess ávalt menjar, því þeir vöndust hjá honum á reglusemi, ráðdeild og sparsemi; liðsinnti hann þeim og optlega með ráði og dáð, eptir að þeir voru farnir frá honum, og þeir þurftu aðstóðar við, enda elskuðu þeir hann aptur á móti eins og vera bar, sem þeirra sannan vin og velgjörara.

Í allri hússtjórn sinni lagði hann fram reglusemi[1], fyrirhyggju og útsjón, og þar kona hans einnig var hin ágætasta búkona, auðgaðist hann

[1]) Það var t. a. m. venja sýslumanns Þórðar að leggja tekjur sínar úr sömu sveitum til hússins þarfa, og þeirri venju hèlt hann stöðugt, hvernig sem áraði.

vel, en færðist samt aldrei mikið í fáng; eins og hann ekki heldur breytti háttum sínum í neinu við það, þó honum ykjust efni, en hann var alla stund í öllum aðbúnaði sinum hinn mesti hófsmaður um hvern hlut, frábitinn hverskonar íburði og glisi, en vandlega gætti hann þess að allt væri þokkalegt og sómasamlegt utanhúss sem innan; og í þessu voru þau hjón hvort öðru samtaka. Gestrisinn var hann og híbýlaprúður, en við húsgángsmenn og letíngja var hann spar á fègjöfum, en liðsinnti sönnum þurfamönnum og þeim er hann vissi, að vildu bjargast af eiginn ramleik; ekki var hann reyndar ör af fè, en stórgjöfull þegar mikið lá við, og vildi þá helzt að slikt væri á sem fæstra vitund. Þegar vinir hans sóttu hann heim, veitti hann þeim ríkuglega, og þareð hann var hneigður til víndrykkju, einkum á efri arum, veitti hann gestum sínum vín að því skapi, og í þessu eina atriði ætlum vèr hann ekki hafi ætíð gætt ens gullvæga meðalhófs, sem honum að öðruleyti var svo eðlilegt. Í samdrykkjum þessum kom einkum framm gáfnasnild hans og góða hjartalag, var þá og hin mesta skemtun að viðræðum hans, eins og hann þá gjörði sèr allt að að gamni; fátalaður var hann af náttúrufari, en jafnframt hreinskilinn og einarðarmikill, þegar því var að skipta; kappsamur og þèttlyndur, og þúngur í skauti, þegar svo bar und-

ir, og þótti því jafnan betra að hafa hann með sèr enn mót; á eingan leitaði hann að fyrra bragði, og fáskiptinn var hann jafnan um annara hagi í öllu, sem ekki kvaddi skylda til; hann var enn vinfastasti maður, en seint tekinn, því hann var jafnframt vinvandur. Ekki lofaði hann neinu ófyrirsynju, en efndi opt betur enn hann hafði heitið; á eingu tók hann harðara enn lausíngjahætti, og fèdrægni þeirri, sem ásælist lítilmagnann og þann, sem ekki getur borið hönd fyrir höfuð sèr; áttu þessir í honum öblugt athvarf, og var hann í þessu atriði sannkallaður faðir ens föðurlausa og forsvar ekknanna. Í tekjum sínum var hann eptirgángssamur, en jafnframt rèttsýnn, og hliðraði jafnan til við þá, sem hann gjörla vissi að áttu við bágan kost að búa, og þó ekki af sjálfskaparvítum; leið hann ekki, að honum væru boðin gjöld sín nema í góðum skileyri, og kvað það eingan velgjörníng að taka annað með þökkum, er slíkt yrði síðan heimtað með sjálfskyldu; skynsömum bændum og ráðsettum unni hann mikið, og hafði mikla skemtun af því að ræða við þá um atvinnuveg þeirra og búnaðarháttu, og af því hann vissi sjálfur glögg skil á allri búnaðarfræði, mátti og mikið græða á þessum samræðum hans; Vildi hann helzt að bændur lærðu sem mest að bjargast við það, er þeir sjálfir mættu veita sèr af búi sínu, en ættu ekki svo að kalla allt sitt traust

undir verzluninni og aðflutníngum frá Danmörku, sem opt gætu brugðist, einkum í sýslu þeirri, sem hann var skipaður yfir; svo þótti honum það og miklu varða, að Íslendíngar hèldu uppi þjóðerni sínu og háttum í öllu sem vel sæmdi, en tækju því að eins upp annað, að það augsýnilega væri hollara, og í þessum skilníngi unnti hann nýbreytni en eigi ella. Fósturjörð sinni unni hann mjög og var sannur Íslendíngur í orðsins beztu þýðíngu. Jafnan hafði hann eitthvað fyrir stafni, og helzt það er snerti embætti hans, gat hann og því heldur sinnt þessu, sem kona hans annaðist allt innan húss með enni mestu ráðdeild og dugnaði. Hann var hagmæltur vel, en mjög duldi hann þess; vitum vèr að hann orkti erfiljóð eptir byskup G. Vídalín, amtmennina St. Thorarensen og St. Stephensen og fleira, sem nú er farið, og, að því er vèr ætlum, af hans völdum. Guðrækinn var hann og trúmaður mikill, og eins og áður er sagt, mikið vel að sèr í guðfræði, sem hann og í tómstundum sínum ávallt stundaði að öðrum þræði.

Í gáfum hans, sem voru ágætar og fjölhæfar, bar mest á hans framúrskarandi skarpleika; var það eptirtektavert hvað fljótt hann festi augastað á því, sem úrslit þess máls, sem var umtalsefni, var undir komið, og hversu honum var það gefið, enda í flóknu efni, að geta

komið hugsun sinni fyrir í fám orðum og þó skiljanlega, og kom þessi gáfa opt fram í viðræðum hans og álitsskjölum; jafnframt var hann vel máli farinn, og frábærlega orðheppinn, en líka, þegar svo bar undir, meinlegur í orðum, einkum við öl; en það var eins og honum yrði það óvart að beita þessari gáfu, svo bar lítið á henni hvers daglega, með því hann var varkár mjög í orðum og fátalaður um hvern hlut.

Þessum kostum búinn var það í eðli sínu að sýslumaður Þórður væri elskaður af sýslubúum sínum, mikilsvirtur af yfirboðnum og í fögrum orðstír bæði nær og fjær, enda luku allir upp um hann sama munni og lètu það ásannast hvílíkur ágætismaður hann var. Þannig leið líf hans fram mjög að óskum; heilsugóður hafði hann allajafna verið, enda þurfti hann opt að leggja hart á sig á ferðalögum, vegna þess hvað sýslan er örðug yfirsóknar. Seinasta árið, sem hann lifði, fór samt að bridda á heilsubresti hans, og þó einkum eptir það hann seint um haustið 1833 hafði orðið að fara heiman að frá sèr í sakamáli nokkru, sem hann átti að gegna úti í sýslunni; þó batnaði honum aptur, en ekki til hlýtar úr því, var þó jafnan á ferli, og gegndi embætti sínu sem áður; þó er líklegt að hann hafi fundið meiri bilbug á heilsu sinni enn hann lèt uppskátt, því

sama veturinn eptir nýárið sagði hann af sèr embættinu, og sendi bónarbrèf sitt til konúngs með póstskipi um vorið; hugði hann gott til þess næðis, sem hann þannig á efri árum sínum ætti í vændum, og hafði opt orð á því við konu sína og börn, og var þá eins og glaðari í bragði enn venja hans stóð til; en — dagar hans voru þegar taldir, því skömmu síðar, á Þorranum 1834, tók hann allt í einu þúnga sótt; var þá óðar sendt eptir prestinum sèra Jóni á Grenjaðarstað, sem um lánga hríð hefur feingist við lækníngar nyrðra og mörgum orðið þar að góðu liði; en sóttin var þess eðlis, að honum var ekki unnt að ráða henni bót, og var þá sendt eptir hèraðslæknir E. Johnsen á Akureyri, en á leiðinni þaðan komu læknirnum þau boð, að sýslumaður Þórður væri þegar andaður, en hann andaðist þann 17. Febr. eptir 4 daga sótt, 68 ára gamall, og hafði hann þá verið sýslumaður í Þíngeyar sýslu 38 ár.

Fregnin um andlát hans var sýslubúum hans og öðrum útífrá mikil harmafregn, því þó hann væri þegar hníginn á efri aldur, ætluðu menn þó og óskuðu að hann mundi eiga mörg ár eptir ólifuð; áhrif þau sem andlát hans gjörði, voru því innilegri, sem dauðans hönd snart hann skyndilegar; greptrunardagur hans var því sannur sorgardagur, en hann var jarðaður að sóknarkirkju sinni Nesi í Aðalreykjadal þann 26.

Febr. í viðurvist mikils fjölmennis, sem boðnir og óboðnir fylgðu líki hans til grafar; yfirsaung veitti honum sóknarpresturinn sèra Jón Ingjaldsson, en þaraðauki hèldu þeir sèra Jón Jónsson á Grenjaðarstað og sèra Vernharður Þorkelsson á Skinnasöðum, sem áður hafði verið prestur að Nesi og mikill vinur hins látna, ræður yfir líkinu, áður enn það væri úthafið.

Þórður sýslumaður var meðalmaður að vexti og þó tæplega, limasmár og nettvaxinn, einkum var vinstra hönd hans svo smávaxin og nett, sem lítil konuhönd, og það leit svo út eins og væri hann allur jafnminni vinstrameiginn; hann var herðamikill og miðmjór og grannleitur í æsku, en feitlaginn þegar hann eldtist; dökkur á brún og brá, loðinnbrýnn, fagureygur og snareygur, nefið lítið og fór vel, munnfríður og höfuðsmár, og hallaði höfðinu og setti nokkuð á, og dró þá jafnan annað augað saman. Allt fas hans var þekkilegt og höfðínglegt, alvörugefið og eins og sómdi manni í hans stöðu.

Þannig er hèr stuttlega farið yfir æfi og lýsíngu þessa merkismanns; vèr erum oss þess meðvitandi að hafa viljað forðast allar ýkjur og oflof, og að hafa leitast við að lýsa honum eins og hann var í raun og veru, en hinsvegar erum vèr hræddir um, að vèr höfum ekki leyst ætlunarverk vort af hendi eins vel og

vera bæri og þessi merkismaður átti skilið. En það er þá bót í máli, að hann sjálfur reysti sèr í lifanda lífi þann minnisvarða, sem er einfær um að halda uppi minníngu hans lángan aldur, því hann hafði lifað leingi og vel, og látið mikið og margt gott af sèr standa. Þetta heldur minníngu hans á lopti að maklegleikum, og einkum meðal sýslubúa hans, laungu eptir það að þessi blöð eru liðin undir lok, því hèr á það heima: að „orðstír deyr aldregi, sá er sèr góður getur.“

# RÆÐA

haldin

af prestinum sèra Jóni Jónssyni á Grenjaðarstað

*við líkkistu*

sýslumanns **Þórðar Björnssonar,**

þann 26. Febr. 1834.

---

Vitið þèr ekki að í dag er fallinn einn höfðíngi og hinn mesti maður í Ísrael? (Sálm. 3, 38). Þannig lèt Davíð konúngur forðum daga í ljósi söknuð sinn og sorg yfir fráfalli einhvers hins merkilegasta hershöfðíngja; þanninn erum vèr líka samankomnir í dag til að syrgja látinn þann mesta mann og höfðíngja meðal vor; höfuð og yfirmann þessarar sýslu, kansellíráð og sýslumann Þórð Björnsson, sem nýlega er fallinn í þessa lífs orustu við sjúkdóm og dauða.

Vèr syrgjum hann ekki til málamyndar, ekki fyrir siðasakir, heldur af hjartans alvöru; því vèr söknum hans sem mesta manns, mesta höfðíngja, sem var í voru samfèlagi, en nú er burt-

numinn frá oss. Vèr syrgjum hann allir saman, eptir því sem vèr hver fyrir sig vorum honum að fèlagsins teingdum meir eða minna nákomnir. Hans ekkjufrú syrgir heitum tárum missir hins trúasta ektamaka', hans börn trega ræktarsamasta föður, hans vinir tryggasta vin; þeir sem í einhverjum vandræðum eður þrautum voru staddir og hans leituðu, hollan ráðgjafa; hans sýlubúar mistu við hans fráfall viturt, vandlátt og stjórnsamt yfirvald; Norðursýsla sína kórónu og landið einhvern sinn ágætasta embættismann, eptir flestra hans embættisbræðra, já, sjálfra hans yfirboðara áliti, sem möttu hann að gáfum og embættis atgjörfi, lögspeki og stjórnarhyggindum, eins og sinn jafnoka, jafnvel sèr fremri í nokkru þessu; og til þessa álits voru gildar ástæður, því bæði hafði guð í fyrstunni gæðt vorn framliðna höfðíngja með ágætum sálargáfum, og líka varði hann þessum gáfum frá barnæsku fyrr og seinna, utan- sem innan-lands, með þeim samboðinni yðn og árvekni, og þessu samboðin var og hins framliðna höfðíngja vandaða og höfðínglega hegðan hvers daglega; en í þessum fáu orðum vorrar síðustu kveðju fáum vèr að eins drepið á svo marga og mikla yfirburði, og allt þetta er og þegar ýtarlega tekið fram og útlistað í þeirri æfisögu vors framliðna höfðíngja, sem vèr þegar heyrðum upplesna Og hvað er þá náttúrlegra, enn að vèr söknum inni-

lega þvílíkra manna sem vörðu miklum eiginlegleikum og frábæru atgjörfi til að efla heillir og hagsældir þjóðarinnar. þegar þeir hverfa oss algjörlega, sjáum vèr gjörst hvað vèr höfum átt, hvað náttúrlegra enn að vèr syrgjum vora látnu ástvini, og látum heit saknaðar-tár falla yfir þeirra nákalda brjóst og barm þegar vèr kveðjum þá í seinasta sinni, og hvert vill hugurinn fyrst hvarfla við þetta og þvílík tækifæri? án efa til vorrar eigin endalyktar, sem líka getur bráðum að borið, til þess, sem oss kann að hræða eður hrella, þegar þar er komið, og undireins til hins, sem þá líka bezt kynni að hugga oss og hughreista móti allri hræðslu og hrellíngu; því hver af oss er svo vel undirbúinn þegar hèðan skal fara, enda ekki sá, er vèr köllum hinn vandaðasta, rèttlátan og dygðugan, og sem guð hefur varðveitt frá vísvitandi syndum, að hann ekki við ýtarlega rannsókn sjálfs síns fynni, að honum hefur svo opt skeikað fótur á skyldunnar veigi, að honum hefur svo opt missýnst og mistekist, og með þessari missýni og mistökum í meir eða minna meiðt sjálfan sig eða aðra, eða hvorutveggja; já, hver getur, þegar hèr á ofan allir kraptar hins forgeingilega líkama taka til að bila og hverfa meir og meir; þegar eyrun heyra ekki leingur, augun sjá ekki leingur, og túngan verður abllaus til að tala og kvaka, þegar allur and-

ans styrkur líka þverrar og sálin verður hrygg allt í dauðann, Ó, hverr getur þá, seigi eg, í dauðans síðasta stríði annað enn alleinasta kastað sèr í guðs miskunarfaðm, í krapti trúarinnar á Jesúm Krist, guðs son og hans endurlausn, sem fullvissað hefur yðrandi syndara um syndanna fyrirgefníng og eilíft líf: um það, að hver sem trúir á Jesúm skuli lifa þótt hann deyi? Leitið og finnið aðra hugsvölun, aðra huggun, önnur úrræði! eg veit eingin, þekki eingin, finn eingin önnur; Í krapti trúarinnar á Jesúm Krist, er eg sömuleiðis sannfærður um, að sá sami guð og faðir minn, sem lèt hjálp sína vera búna mèr til handa þegar eg í öndverðu nakinn og hjálparlaus fæddist í þennan heim, muni einnin, þegar mín sál gegnum dauðans hríðir aptur nakin og afklædd sínum forgeingilegu reifum, fæðist í annað sinn til annars betra lífs, sjá henni fyrir nýum, óforgeingilegum klæðnaði; muni senda henni eingla sína til fylgðar, um þá oss dauðlegum ókunnu leið, yfir til ódauðlegleikans sælu bústaða, til þeirrar vistarveru, sem Jesús hefur henni þar tilbúið.

Í þessari trú á Jesúm Krist fórst þú einninn burt frá oss, þú, vor sæli höfðíngi, Þórður Björnsson! því vèr (eg og þín einasta dóttir, sem aldrei skildi við þig í þinni helsótt) sáum og vorum vitni að þínu síðasta dauða stríði; þegar þetta stríð tók að elna, þegar dauð-

ans nákalda sveita sló utum þig, þá hrópaðir þú hárri raustu nokkrumsinnum aptur og aptur, *herra Jesús!* sem vildir þú seigja með píslarvotti drottins forðum daga: herra Jesú, meðtaktu minn anda! þar eptir leið þinn andi þegar hægt og hægt burt og þú sofnaðir, sem guðsmaðurinn Stephanus.

Þannin er þá þín ódauðlega sál farin aptur til guðs sem hana gaf, hvar vèr trúum að hún feingið hafi trúrra þjóna verðlaun; en hennar hús í lífinu, þinn dauðlegi líkami, er geymdur í líkkistu einni, og búinn hinu dymma skarti, harmsins og dauðans, eins og þinna ástvina kærleiki kunni sómasamlegast um að búa; hann stendur enn fyrir augum vorum, og mun þegar úthafinn verða til síns síðasta legstaðar; Nú skilur þú því algjörlega og í síðasta sinni við þetta þitt kæra hús og heimili; Þín sál þakkar guði fyrir allt það góða, sem þú í því nautst, fyrir alla hans velgjörninga við þig í þessu lífi; þú lætur um leið þakkað öllum þínum ástvinum fyrir alla þeirra viðburði til að gjöra þèr lífið sætt og ánægjulegt meðan þú hjá þeim dvaldir. Þökk sè þèr einnig, vor framliðni! fyrir allt það góða og nytsama sem þú um þinn hèrverutíma afrekaðir! Sami andi sem lýsti sèr hjá þèr í embættistrúmennsku, reglu og rèttvísi hvíli einnig yfir þínum eptirmönnum! og farðu þá vel úr voru samfélagi! Frið-

ur sè með þèr, friður guðs í og með sálu þinni eilíflega, já, friður guðs sá hærri og æðri er, sem yfirgeingur allan skilníng, varðveiti stöðuglega allra vor hjörtu og hugarfar, við trúna á Jesúm Krist! amen!

---



Hèr er leiddur
höfðíngja prýði,
ÞÓRÐUR BJÖRNSSON
kansellíráð og konúngs valdsmaður,
fæddist 1766, dèyði 1834.
Þíngeyar stýrði þíngi árvakur
þrjátíu fimm og þrjú ár fremur.
Giptist 1804
Bóthildi Guðbrandsdóttur,
eignuðust þrjú börn, en tvö lifandi.

---

*Að stillíngu, visku, stjórnsemi, trygð, röggsemi, trúrækni, rèttlæti, hreinskilni frægur, saknaður, falinn minnum.*

---

## I.

### Kansellíráð ÞÓRÐUR BJÖRNSSON.

1.
Nú er nótt
í Norðursýslu!
rann í dauðasæ
dagstjarna hennar,
er kansellíráð
konúngs Þórður
fluttist til bygða
forkláraðra.

2.
Norðurland
með Norðursýslu
prýði horfinnar
harmar missir,
og sorgar slær
sorta yfir
Ísaland
ögrum skorið.

3.
Allir hinir betri
Ísalands stjórar
samhuga sögðu hann
sèr snjallari;
glönsuðu gáfur
af guðdóms ljósi,
hjarta bæði og hendur
hreinar voru.

4.
Fjónaði hann fè
feingið illa,
leið hann landsugur
nè lausíngja;
ósiðum hann stökkti
og ójöfnuði,
en veitti lið
lítilmögnum.

5.
Ef á Íslandi
öllu væri
hèraðsstjórn slík
hans sem reyndist:
betri mundu hjú,
búar siðaðri,
og dygðir með efnum
dafna í landi.

6.

Víst kemur maður
manns í stað,
en ei *jafníngi jafnan;*
Þíngeyínga auðna
er allra meiri
ef þeim ljæst hans líki.

7.

Býr nú hinn rèttláti
rèttlátum hjá
og ángurs einkis kennir,
en minníng hans
mun æ vakin,
*þá góðs er höfðingja*
*getið!*

B. Thorarensen.

---

## II.

Hví dymmir svo
á deigi miðjum?
Er sem líkblæa
byrgi ljóss-geisla.
Hví er náklukkna
hljómur í lopti?
hví dauðans eingill
hrósar svo sigri?
Hver fer svo fögur
fylgð gegnum ský
með guðlegum glans
og gleði himneskri?
Fallinn er dyggur
fyrða-jaðarr,
kansellíráð
og konúngs valdsmaður
Birni iðnvandur
borinn Þórður,
öldúngur hvítum
hærum prýddur.
Hefur skarð mikið
höggvið dauði,
frá náúngum styttu
numið styrkva,
yfirvald bezta
búum sýslu,
fylki jafnt og
Fróni dyggvann.
Fróður var hann
og fjölvitur bæði,
Lögkænn eins og
landar beztu,

sèrhverjum jafnan
sitt vildi gefa;
verndaði dygð
og dáðir efldi;
hataði löst
og hverju beitti
leyfðu vopni
vald hans að rýra.
Minnst jafnan fór
að mannvirðíngum
matti rètt rètt,
en órètt órètt,
hveim í búníngi
helzt sem byrtist,
og hataði mútur
heli fremur.
Vissa' eg þar bezt
verða samferða:
stjórnsemi' og stillíng,
strángleik' og mildi;
alvörugefni' og
ávarps - blíðu;
höfðíngja viðmót
og vinasvip.
Fall mun forseta
fjöll en snæþöktu
Íslands gegn fljúga
og öllum þykja
skarð allmíkið
fyrir skyldi vorðið;
þó nemi því meir,
sem nær er höggvið.
Fyrr munu jöklar
foldgrónastir
lífsfjöri lostnir
á lopt sèr bregða,
og gagnfrernir detta
geislar sólar
sem ísmöl niður
á aldna fold,
enn deyi frægð *Þórðar*
og dáða minníng.
Syrgir Norðurland
sína prýði
höfuð Þíngeyar -
harmar - sýsla,
dapur er hverr
sem dygðum unnir
útaf láti
íturmennis.
Mikil er von
að margur syrgi,
mikill er hníginn
hjálmun baldur,
enn guði var frjálst
gjöf taka sína,
og hetju lúinni
hvíld að gefa.

Syrgjum ei bræður! guð er nálægur
sem vonarlausir, og gefa mun
heldur stillíngu bót á raunum
hugprúða sýnum! bezta þessum.

S. Níelsson.

---

## III.

### Við andláts fregn
### Sýslumanns ÞÓRÐAR BJÖRNSSONAR.

1.

Frá Norðursýslu andvarp eitt
eg heyri þúngt, hvað mun því valda?
þann, sem hún unni einka heitt
æ! dauðans höndin snart hin kalda;
kansellíráði Björnsen bendti
burt að víkja alvaldur nú;
svo sem dauðlegan hann það hendti,
hans er þó von að saknir þú.

2.

Þar fèkkstu eitt hið þýngsta sár
þess finn eg og með titríng sviðann.
Föðurs góðs maki fregnast nár,
fleiri' enn einn vill nú minnast við hann;
Fyrir þèr jafnä önn æ ól hann
og ástkær faðir börnum sín
náð hilmirs Dana hèr títt fól hann
að hægja mörgum raunum þín.

3.

Þegar dómara sess hann sat
sízt leit hann þá á vingun, hylli;
guðs lög og kóngsins mest hann mat,
minníng sú legstað hans nú gylli;
Mildi' og rèttvísi mat hann saman,
mildur og rèttvís æ hann var,
en áleit barna ekkert gaman
að dæma hvern einn svo sem bar.

4.

Andi þinn, Björnsen! yfir þeim
ætíð hvíli sem hèr skal dæma!
þá mun Drottinn sem dæmir heim
dýrðlegum heiðri hvern þann sæma,
sem í þín trúleiks fótspor fetar,
þó finnist trauðla maki þinn,
í náð guð síðar mun það meta
ef maður vandar ferilinn.

5.

Dáðríkur, ráðsnjall, djúpsær, trúr!
af dauðans eingils vængja slætti
að dupti varst, sá verndar múr,
sem vini og hriggva fræddir, kættir,
æ! farðu vel! en eingill friðar
yfir moldum staðnæmist þín!
þá lífs sól geingur loks til viðar
líkist þá rèttláts útför — mín.

V. Þorkelsson.

---

